# GRAFSKRIPTIR

OG

# ERFILJOÐ

EPTIR

**HELGU RAGNHILDI EIRÍKS-DÓTTUR KÚLD**

OG

**ÓLAF EIRÍKSSON KÚLD.**




REYKJAVÍK,

PRENTAD Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS,

1851.

†

Andaði köldum
anda dauði,
leið svo land yfir
og á lauka blès;

fölnuðu fyrir
fagrar rósir,
alnar ilgeislum
af árdegis sól.

Hnè þá að hauðri
hýrlegust rós,

**HELGA RAGNHILDUR,**

heitin Kúld,

fædd 21. ágústm. 1847, dáin 14. júlí 1851.

---

Falla-tár frænda
á hið fölva blóm,
eins og í heiði
af himni dögg.

---

Blómið nú sefur í broshýrum reit,
af beljandi stormum og kólgu ei veit,
þá Alvaldur kallar, en hret dvína hörð,
og hverfandi tími, á nýskaptri jörð
aptur í vorblæ það vaknar.

J. Th.

---

†

Þekkirðu blæinn, sem berst yfir fold?
Blíðasta fjörinu glæðir hann mold;
austræna landinu líður hann frá,
leikandi kvöldsólar geislunum á
rósunum inndælu yfir.

Þekkirðu storminn, er sterklega hvín?
Stynjandi aldan í veðrinu gín;
leiptrandi skýunum líður hann frá,
leikandi eldínga blossunum á,
drepandi ljósið, sem lifir.

* * *

Það er guðs andi
gæzkuríkur,
ósegjanlegur,
ómælanlegur,
fjörgjafinn blíði
og farsællegi,
en aptur færandi
fjörvi dauða.

Það er hinn sami,
er sólar ljóma
brá yfir rós
á beði grænum.
Það er hinn sami,
er svífa lèt
fölvan blæ
yfir fagurt blóm.

* * *

Eingillinn líður um ljósheima stig,
ljósanna siklíngi færandi þig,
barnið hið fagra, sem blundar nú vært
brostnu með auga, þó enn sè það skært
fagurt á friðarins landi.

Harmurinn dvelur á hauðrinu sár,
hrynjandi blika á kinnunum tár, —
en tignarleg speglast í tárunum mynd,
trygt sem að sefur við leiðisins grind.
Barn, það er blíður þinn andi.

B. Gr.



Hèr er í síðasta sinni
til svefns lagður
úngur Eiríks son

**ÓLAFUR KÚLD,**

fæddur 1. des. 1849, dáinn 20. okt. 1851.

---

Á vorin vegleg blóm
vaxa í grænni hlíð.
Með Skuldar skapadóm
skelfandi vetrarhríð
  lætur þau fölnuð falla;
unaðs þá virðist enduð tíð.

Um harðla stutta stund
stendur í haga rós;
frost meðan girðir grund
og græðis þekur ós,
  dáin í dupti liggur,
vors hana þar til vekur ljós.

Verður því vorið kært
vetrinum kalda á,
að vitum skinið skært
skjótt muni sólar þá

aptur úr fylgsnum færa
rósir og blómin rauð og blá.

Þú varst, mitt barnið blitt,
brosandi jurtin hrein;
þínum af hvörmum hlýtt
hýran og ástin skein,
með ilm og ángan bliðu
brjóstinu sèrhvert bættir mein.

Leingi ei lèð oss var,
líta þig, rósin fríð:
snjóinn á brúnir bar
beljandi kólgu hríð.
Þáða samt guði þökkum,
er við þín nutum, unaðs tíð.

Vist heimsins vetur er,
vorið er eilífð mær;
það vorið þreyum vèr,
þá muntu endurskær
lypta upp ljósum kolli.
Blómsvefninn uns þèr verði vær!

E. O. K. og Th. K.

---

„Hjarta mitt titrar, það harmurinn sker:
„horfinn er ástkæri sonurinn mèr;
„sá, sem til unaðs mèr Alfaðir gaf
„eilífu miskunar gnægðinni af,
„liggur í kistunni liðinn.

„Sá eg hinn fegursta blikna, sem blað
„á blómstilk, sem frosta er snortinn af nað.
„Bað eg minn drottinn, að frelsa hans fjör,
„en flúið er lífið af nábleikri vör,
„nú sem að kyssi eg kalda“.

Móðir, er þannig nú syrgir þinn son,
soninn hinn fríða og ættmanna von,
láttu ei harminn svo hjarta þitt þjá,
að hrygðar úr dimmunni megir ei sjá
Huggandi himinljós tindra.

Minnst þess, að eldheita brjóstið, sem bar
barnið hið syndlausa, einnig það var
bitrasta harmanna sverðinu sært.
Sama því hlutskipti verði þèr kært,
sem guðsmóðir þjáð varð að þola.

Í brjóstinu sonar þíns skína rèð skær
skynsemis neistinn svo fagur og tær.
Þú vildir hann yxi með aldri og tíð —
er hann þá slokinn við helfarar stríð?
Nei, hann í ljósheimi lifir.

Nú er hinn úngi við uppsprettu þá,
allar sem spekinnar lindirnar frá
Streyma um alheim, en eilífða tjald
frá augum hans tekið, svo litmynda spjald
heilagra hugmynda skoða.

Gott er, að eiga sèr ágætan nið,
atgjörvi gæddan og prúðmenna sið;
Þó er hann maður: og sælli er sú,

sem að það hlotnast, að vera, sem þú,
móðir að alskærum eingli.

Og þegar húmar um haga og fjöll,
en himnanna smáblysin kveykt eru öll,
á ljósskýi eingillinn líður, og sèr
landið hið flata, og blíðlega tèr:
„Móðir, þú mátt ekki gráta“.

J. Th.



